WIKIPEDIA

# Cree

**Cree** er heiti yfir fjölda nátengdra algonkískra mállýskna sem talaðar eru í Kanada af um það bil 117,000 manns allt frá norð-vestur hluta landsins að Labrador í austri en Cree er þar með mest talað allra frumbyggjatungumála í Kanada. Þrátt fyrir fjölda talenda á stóru og dreyfðu svæði er Cree aðeins opinbert tungumál í norð-vestur hlutanum ásamt átta örðum frumtungumálum.

Cree mállýskur fyrir utan þær sem talaðar eru í austur hluta Quebec og Labrador eru eftir hefð skrifaðar með Cree atkvæðastafrófinu sem er frábrugðið Kanadíska frumbyggjaatkvæðastafrófinu en það er einnig hægt að rita þær með latneska stafrófinu. Eystri mállýskurnar eru ritaðar eingöngu með latneska stafrófinu.

Cree hefur 5 mismunandi mállýskur. Tungumálið á sér langa sögu og ritmál þess á uppruna sinn til ársins 1840. Samhljóðar í tungumálinu voru þróaðir af James Evans og eru níu talsins.

| **Cree**<br>***Nēhiyawēwin*** | |
|---|---|
| **Málsvæði** | Kanada |
| **Fjöldi málhafa** | 117,410 |
| **Ætt** | Algísk mál<br><br>Algonkísk mál<br>Miðalgonkísk mál<br>**Cree** |
| **Skrifletur** | Latneska stafrófið, Cree atkvæðastafrófið (frábrygði af Kanadíska atkvæðastafrófinu) |
| **Tungumálakóðar** | |
| **ISO 639-1** | `cr` |
| **ISO 639-2** | `cre` |

**ATH:** Þessi grein gæti innihaldið hljóðfræðitákn úr alþjóðlega hljóðstafrófinu í Unicode.